# Æfisaga Hannesar Finnssonar,

*S. S. Theologiae Doctoris*

og

Biskups yfir Skálholts-stipti.

Upplesin

vid

Hans Jardarför

ad

Skálholti,

þann 23ia Augúst 1796.

Leirárgørdum vid Leirá, 1797.
Prentud af Bókþryckiara G. J. Schagfiord.

Ad segia frá ætt og uppruna sál. Biskupsins *Doctors* Hannesar Finnssonar, mundi bædi útheimta oflángann tíma, ef allir þeir stórgøfugir menn ættu upp ad teliast, sem hann átti kyn sitt til ad rekia, og þar hiá sýnist þess ei heldur gioraſt þorf, þar ættartølur beggia hans sál. foreldra, nefnilega Biskupsins *Doct.* Finns Jónssonar og Frúr Gudrídar Gísladóttur eru ádur á prent útgengnar, af hvørium siá má, svo sem øllum oss er þaradauki alkunnugt, ad hann var kominn af mestu háttar mønnum, sem í háum og viktugum embættum hafa fødurlandinu þiónad. En svo sem madurinn var stór-ættadur, svo var hann líka sómi sinnar ættar, og géck þann veg frá únga aldri, sem leidir til sannrar æru, luckn og metorda, hvad hans eptirfylgiandi æfisaga vottar:

Sál. Biſkupinn *Doctor* Hannes Finnsſon er fæddur í þennann heim ad Reykholti í Borgarfirdi þann 8da Maí 1739, hvar hann uppvólſt í Guds ótta, gódum ſidum og menta ydkunum til þeſs hann var 14 vetra, ad undanteknum þeim tíma, ſem hann á ſínum ýngſta aldri frá 1745 til 1748 var til fóſturs á Saurbœ á Hvalfiardarſtrønd hiá þeim gódkunnu hiónum, þeim reglufaſta og vandada Preſti Síra Þorvardi Audunarſyni og hans ektaqvínnu Sigrídi Magnúsdóttur til hennar dauda-dags. En ſvo ſtutt, ſem hans vera var á fyrrnefndum ſtad, var hún þó næg til, ad þarvid qviknadi ſá ræktar- og elſku-andi, ſem æ ſídan vidhéldſt og jafnan eblditt milli ſál. Biſkupſins og Síra Þorvardar; vixludu þeir árlega bréfum og ødrum vina-hótum ſaman medan þeſſi lifdi og hinn var erlendis, og ad lyktum lét ſál. Preſturinn med ſínu teſtamentis-giørd ſiá þeſs ſannar meniar, hvørſu einlæglega þeſſi hafdi vorn nú ſáluga virdt og elſkad, og hann þad ſamá forþénad.

Um hauſtid 1753 var hann ſettur í Skálholts-Skóla, en fluttiſt um

ſum-

sumarið 1754 ásamt foreldrum sínum alfarinn frá Reykholti til Skálholts. Úr Skólanum var hann eptir tveggia ára þarveru reglulega dimitteradur. 1755 sigldi hann til Kaupmannahafnar há-skóla, hvar hann eptir loflega afstadid *Examen* var í Stúdenta tølu og stand innskrifadur. Hér gékk hann med æru og sóma þær trøppur, sem leida til hefdar; og yfirvaldsstands, svo ad hann árid 1757 útstód *Examen philosophicum* og fékk *characterem laudabilem*, og vard skøminu þareptir *Philosophiæ Baccalaureus*. Hafdi hann fyrir Kénni-fedur vid há-skólann, fyrir utan þá verandi *Præpositum Communitatis Regiæ* (Prófast á Klaustri), en sídar Biskup yfir Prándheims stipti, Gunnerum, Prófessorerne Horrebow, Ziegenbalg, Kratzenstein, Schlegel og Kall; undir þessara handleidslu lagdi hann sig med óþreytandi kostgiæfni eptir øllum þeim philosophisku og philologisku lærdóms greinum, sem vid há-skólann sidvanalega lærast, og jafnframt stundadi ad ná grundvalladri þeckingu á náttúru-vísindum, sérílagi Bótaník edur urta-vísi, útvel-

 iandi

iandi sér þarí fyrir leidtoga **Ascaninum** og **Holm**; æfdi hann þessa nytsømu og prýdilegu ment med mestu alúd, svo sem hann og yfirhøfud hafdi alltíd stærstu lyst og yndi af þeim physisku og mathematisku lærdóms tegundum. Í náttúru-logspekinni hafdi hann fyrir lærimeistara **Gunnerum**, en í þeim svo kølludu **Fogru-** edur **Snildar-vísindum** þann sídstnefnda og **Schlegel**.

Arid 1758 lá hann í **Kaupmannahøfn** siúkur af mislíngum, en reisti, nýstadinn upp úr þeim, til **Íslands** til ad finna sína kiæru foreldra, og reyndi á þeirri ferd, sem annars optlega, Guds addáanlegu og fødurlegu verndun, þar honum strax eptir sína burtreisu frá **Kaupmannahøfn**, sló nidur aptur í sømu sótt, og lá hann þúngt haldinn rúmann hálfann mánud. Fyrir utan þad, ad á þvílíkum sió-ferdum er ecki gott tækifæri til adhiúkrunar fyrir siúka, mætti vor sæli Biskup á þessari reisu med **Bátsenda** skipi þeirri hørdustu og miskunnarlausustu medferd, þar honum var ecki einasta neitad um gott vidmót, liós, þægilegann mat og þad, sem hann í siúkdóminum til endurnæríngar

naud-

naudsynlegast medþurfti og til var, heldur ogsvo rekinn úr sínu egin rúmi, og tekinn frá honum hans egin sæng, sem hann á lá. Loksins, þegar siúkdómurinn var stíginn til þess hæsta, svo vor sæli Biskup féll í ræunleysi og vissi ei hvad hann giördi, og hann í ofbodi hafdi gripid til the-könnu, sem nærri honum stód med köldu vatni, og druckid af henni, sem í þeim siúkdómi er álitin daudleg hætta, féll hann í svefn, en vaknadi vid, ad hann siálfur var ordinn hel-kaldur, og hafdi hálf-nakinn á nætur-þeli í sóttar-óvitinu brölt fram á þilfar, og var þar af skips vaktinni tekinn og aptur borinn í rúm sitt, en frá þeim tíma vard hann, nema hvad mátt-leysi snerti, heill sóttar sinnar.

Samsumris reisti hann aptur til Kaupmannahafnar til ad framhalda sínum stúderíngum, og árid 1759 útgaf hann Kristinn-rétt Vikveria med látínskri útleggíngu og upplýsandi athugasemdum, fyrir hvört skrif honum ecki einasta ári sídar, þá Júbil hátídin var haldin í minníng þess, ad Einvalds-stiórnin hafdi þá fyrir hundrad árum verid innleidd í Danmörk, vóru

af því Theólógiska Faculteti tildæmd opinber verdlaun, sem eptir Konúnglegri allranáduguſtu ſkipun hoſdu verid útſett og heitin þeim, ſem vid háſkólann útgiæfu þad beſta próf-ſkrif; heldur var þeſſu ſkrifi ſvo miog hróſad í þeim lærdu tídindum í Svíaríki, ad þegar *Informator* Arfaprinſins Fridriks, ſá ódaudlegi Próſeſſor Jens Schelderup Sneedorph hafdi leſid þetta hrós, lét hann ſpyriaſt fyrir þeſſum ſér ókunnuga rithøfundi, og tilbaud honum ad fyrra bragdi pláts á Elerſens Collegió, hvøriu hann móttøku veitti 1762. Um þær mundir virdti ſá lærdi Riddari og Próſeſſor í Upſala Ihre þetta rit ſvo mikils, ad hann lagdi þad upp aptur, og ſá ſídar ordni ſvenſki Sendibodi í Polen og Riddari Magnus Olavius de Biörenſtierna lét þad, undir Ihres *Præſidio*, koma undir opinbert próf vid þad Upſaliſka *Univerſitet*.

Árid 1760 var hann forgángsmadur til ad ſækia um tvø *Privilegia* handa løndum ſínum, íslendſkum Stúdentum, þá og eptirleidis vid *Univerſitetet* í Kaupmannahøfn, bædi ad þeir mættu fá frítt

frítt fluttar vörur til sín þángað uppá 20 rdli., sem ei var áður nema til 8 rdla., og líka að þeir á ferðinni milli Íslands og Kaupmannahafnar fengiu frí-flutníng og kost fyrir áqvarðað verð, sem var miklu minna enn áður hafði viðgengist; og 1771, þegar við siálft lá, að þeir mistu aptur það fyrra, kom hann í veg fyrir það með fáheyrðu snar-ræði og góð-ræði. 1760 lagði hann út á þýsku Sauða Tilskipun Færeyínga betri enn þá, sem fyrst var prentuð í þýskri útleggíngu af Lúcas Debes *Feröa reserata*, og var sú síðar prentuð í nockur *Exemplaria* af bókinni; líka skrifaði bréf móti Thóm. Balles Paunkum um Ísland, er útkomu í 2ur pörtum á dönsku. Þessi bréf komust seinna, en *defect* honum óvitandi til Agent Holks, er með hrósi lét prenta þau í Kiøbenhavnske Adresse Efterretninger, og beiddi hvørn sem gæti, að láta sig fá það, er vantaði, svo það gæti komist þar líka á prent; en vor sæli áleit bréf sín svo ófullkomin, að hann aldrei hefði siálfur samþyckt að þau hefðu prentast, fyrr enn hann hefði verið búinn að kara þau betur, og þessvegna

hvörki gaf sig í ljós, né lét þad, sem í þau vantadi í té. Um þessar mundir var hann einn medal fleiri med-erfidara uppá Kjøbenhavns Efterretninger om lærde Sager, og út af einni sinni *Recension* komst í léttvæga képpni vid Grænlands Prest, en seinna Prófast, og Prest í Bogensee í Fyhn, Síra Egil Þórhallason, hvaraf tvø qver komu á prent.

Í Gud-frædinni hafdi vor sæll Biskup fyrir Kénnifedur þá merkilegu *Theologos* Hólm og Rosenstand Goiske, med hvørra handleidslu og sífeldlegri ástundan hann ávann sér í *Examine theologico* árid 1763 þad stærsta velforþénta hrós og *characterem laudabilem*, og á þessum tíma útgaf hann sínar sídari Athugasemdir yfir Kristinn-rétt Vikveria, og litlu sídar Framhald þessara sömu Athugasemda. Um þær mundir faladi Biskup og Pró-cancelleri Pontoppidan hann til ad giøra upplýsandi registur (*catalogue raisonnée*) yfir allar handskrifadar bækur, sem sál. Assessor Arni Magnússon hafdi gefid til Kaupmannahafnar há-skóla. Þad verk átti ad prentast jafn-

ødt

ódt og fáeinar arkir í hvørt sinn væru bún-
ar, og allt var milli þeirra aftalad, Pro-
cancellerinn var ad útvega konúnglegt
bréf uppá þetta fyrirtæki og launin, þeg-
ar daudinn kalladi hann snögglega burt.

Arid 1765 var hann af há-skólans
forstødumønnum útvalinn til ad vera
Tilsiónarmadur á Elersens Colle-
gió jafnvel þó á tédu Collegió
væru þá tveir *Philosophiea Magistri*,
og adrir tveir, sem þar høfdu lengur
verid, og stódu þessvegna nær enn hann,
hvørt embætti hann hafdi á hendi í tvø
ár. Á þessu fyrrnefndu ári 1765 útgaf
hann *Dissertationem* um Kóngs Skugg-
siá, hvør ed þremur árum sídar var apt-
ur þryckt í Sórey framan vid sömu
bók, og í *Actis Eruditorum Lipsiensibus* féck
mikid hrós. Arid eptir skrifadi hann
og útgaf eptir áegginn síns velgiørara
Biskups Harboes og á hans kostnad
Eptirréttíng um Heklu-gosid, er
skédi sama ár, hvøred sídan var útløgd
á þýsku, og líka snéri siálfur Biskupinn
sál. henni á frønsku, hvoria útleggíngu
*le Sueur*, Kóngsins af Fránkaríki full-
mektugur Sendibodi (Vice-Minist-
er) vid þad danska Hof lét prenta í
Schweitz-

Schweitziskra lærdu Tídindum. A þessum sama tíma tilbaud nefndur Sendibodi *le Sueur* honum eitthvørt hid heidurlegasta og inntektamesta embætti, ad hann skyldi verda Konúnglegur Utleggiari Nordurlanda Túngumála á þeirri Konúnglegu bókhlödu í borginni París í Fránkaríki, og baud sig til ad kosta siálfur uppá hans ferd þángad fram og tilbaka, og útbetala fyrirfram þad hann þirfti í þriá mánudi, medan hann væri þar til ad kynnast vid, svo ad honum væri vel borgid, þó honum líkadi ecki ad takast þad embætti á hendur, hvørt álitlega tilbod hann med lempni afþackadi ymsra orsaka vegna, sérdeilis af því, ad hann áleit trúarbrøgd sín sett í stærstu hættu, ef hann hefdi ad þessu gengid, og líka þókti honum ofmikill vandi ad setiast í þad sæti, er hinn mikli Winslów hafdi fyrir skømmu klædt. (a) Annars í allann

(a) Þessi fyrir sinn lærdóm nafnfrægi danski madur yfirgaf þau Evangelisk-Lútherska trúarbrøgd, og giørdist Róman-catholskur, eptir (sem almennt hefir sagt vérid) þess vídfræga franska Biskups Jac. Ben. Bosuets fortølum.

ann þann tíma sem hann vár á Elers-
sens Collegió, uppfræddi hann bædi
Stúdenta undir ædri *Examina*, og líka
undirbió únglínga til há-skólans, hvör-
jir undir hans kénnslu tóku godum og
fliótum framförum. Medal þeirra mik-
ilsháttar manna, sem útvöldu hann til
ad menta börn sín og náfrændur, næg-
ir ad nefna hér einasta Geheimerád og
Riddara Holmskiold, og Justitsráð
Wohlert, hvörra velgiördum og góð-
vild vid sig Biskupinn sál. ætíd hrósadi,
svo sem líka sá fyrri opt skrifadi honum
til, eptir ad hann var kominn hér til
landsins, og sendi honum skeinkíngar,
svo sem virdíngar og vináttu merki.

Arid 1766 átti hann ad verda Lær-
ari í Mathematík þeirra úngu Edal-
sveina hiá Eckin-drottníngunni So-
phia Magdalena háloflegrar minn-
íngar, var þessvegna af Conferenceráði
og *Professore Mathem. Superiorum* Chr.
Horrebow reyndur í þeckíngu á *Ma-
thesi*, um hvad hann ei einasta fék hans
skriflegt vitni med miklu hrósi, heldur
og skömmu þar eptir var af honum val-
inn til ad vera *Opponens Ordinarius* á *Au-
ditorio superiori*, hvar nefndur *Præses* op-
in-

innerlega' sagdi frá og hrósadi fyrr-greindri reynslu. Í þessum svifum fékk hann bréf frá fødur sínum, er þá var ordinn ekkiumadur, og mældist til ad hann kiæmi inn til landsins. Jafnvel þó sýnast mætti, ad hann med því færi mikils góds á mis, lét hann þó fødurs síns skipun, eins og hann var alltíd vanur, sitia í fyrir-rúmi, féck lausn frá ad verda *Informator*, sigldi strax med fyrstu skipum frá Kaupmannahøfn um vorid 1767, og kom í Skálholt árla morguns þann 16da Júlí. Fám døgum eptir ad hann var híngad til landsins kominn, féck hann þá fregn, ad Prófessorerne í Kaupmannahøfn høfdu í annad sinn tildæmt honum opinber verdlaun fyrir úrgreidslu þess historiska spursmáls, er þeir árinu ádur høfdu, ad tillagdri verdlauna heitíngu, framsett til úrlausnar: hvørt Biskupinn í Aarhús-stipti Arnefastus hefdi drepid Dana Kóng Christóph or fyrsta á eitri í qvøldmáltídar-sacramentinu? (b)

Í

(b) Í þessum bæklíngi er med røkum forsvarad þad neitandi svar, þvertámóti þeirri af Sagnameist-urunum almennt viðteknu meiníngu.

I þetta sinn dvaldi hann þriú ár hér í landi, var sínum aldrada fødur til adstodar og léttirs, í því hann kunni, siálfum sér til lærdóms og æfíngar, svo ad honum urdu stiptisins sakir og ástand vel kunnugt, uppfræddi únglínga, sem til menta vóru settir, og lagdi sig eptir sagna-vísi og frekari þeckíngu á nordur-landanna fornfrædum, hvari honum komu ad mestu notum bækur og munnlegt samtal fødur hans þess stóra *Historici* og hálærda Biskups *Doctors* F. Jónssonar. Um þann tíma skrifadi hann og svo ýmislegt um fornaldar sakir, svo sem: á móti Próf. Mallet um orsøk til þess, hvarfyrir lærdómur og vísindi blómstrudu hér í landi frá árinu 1056 fram til ársins 1264; einnin giørdi hann þá samansafn til íslendskrar Ordabókar (*Lexicon*) med látínskri útleggíngu, af hvørri einúngis sá fyrsti partur til lykta leiddist, sem er eitt hid fullkomnasta og ríkasta rit í þeirri lærdóms-grein, og sýnir medal annars þess sæla manns ferdugleika í bádum þeim túngum. Einnin skrifadi hann á þessum tíma sendibréf þess efnis, ad møgulegt væri ad

inn-

innleida aptur ad nýiu hér í Ís-land þá akuryrkiu, sem hér var tilforna, hvört bréf sídan var af ein-um hans vin útlagt á dönsku, og prent-ad í Kaupmannahöfn 1772.

Árid 1770 vóru honum, þá hann físt vissi þess nockra von, af einum hans velgiörara þeim nafnfræga lærdóms elsk-ara Greifa Otto Thott bodnir 200 rdlr til launa árlega, þángad til betri kostur bydist, ef hann vildi koma apt-ur til Kaupmannahafnar, og ver-ia ydn sinni til ad upplýsa einar og adr-ar nordurlanda fornaldar sakir. Ept-ir þessu tilbodi fór hann sama ár til Kaupmannahafnar, en þegar hann kom þángad í Octóber mánudi um haust-id, vóru farin ad hreifa sér þau biltínga stormvidri, sem í Strúensees makt-ar-tíd giördu alla Danmörk ótta-slegna, og hristu hana og skóku til þess 17da Jan. 1772, þá Greifi Strúen-see og hans flockur hrapadi. Var þá innan skamms hans velunnari Greifi Thott, sem hafdi bodid hönum þessa kosti, sviptur öllum hans háu embætt-um, svo hann siálfur hlaut ad víkia á góts sitt á landinu, vard því ómögulegt

ad

ad setia nefndann áſetníng í verk. Þar Biſkupinn ſál. áleit ſér eins mikla vanſemd í því ad vera fødur ſínum til þýngſla, og hleypa ſér í stór-ſkuldir, hafdi hann litla penínga med ſér hédan, en ætladi uppá þad, ſem honum var heitid, ſvo hann hefdi í þad ſíðn ordid ſtrax ad reiſa tilbaka til ſíns fødurlands, ef hans stóri velgiørari Biſkup Harboe hefdi ei komid honum til hiálpar, um hvorn Biſkupinn ſál. bædi ſkriflega, og líka munnlega, þá ſvo bar undir, vitnadi, ad hann hefdi gengid ſér í fødurs ſtad allann þann tíma, ſem hann var utanlands, og ad í øll þau 19 ár, ſem hann hefdi þar verid, hafi varla nockur lúckuleg umbreytíng á ſínum kiørum ſvo tilfallid, ad hann hafi ecki átt ad þacka hana þeſſum ſínum óvidjafnanlega velgiørda fødur, annadhvort einſomlum eda ad nockru leiti. Biſkup Harboe gaf honum þá, og allt til þeſs hann fór ad fullu og øllu til Islands 1777 koſt daglega vid ſitt egid bord, og ſýndi honum ſvo mikla og ſífelda áſtúd, eins og hann hefdi verid hans egid barn. Þegar þannig var áſtadt fyrir vorum ſæla Biſkupi, ſem ádur er ſagt, kom Biſkup Harboe

 hon-

honum í kunníngskap, og útvegadi honum hylli þeirra stóru manna og nafnfrægu lærdóms elskenda, Geheime-ráds og Riddara Lüxdorphs, og Kammerherra Suhms, af hvörium sá sídari fékk honum í hendur vora íslendsku Landnámu til ad snúa á látínu og láta prenta, hvör bók þryckt er í Kaupmannahøfn 1774 á Kammerherrans kostnad.

Eptir ad bókpressu-frelsid 1771 var útgéfid, streymdu svo ad segia bækur út, svo mørgum vard forvitni ad vita allt hvad útkom, og hvørs þeir í hvørium bæklíngi vænta kynnu, med úrskurdi um stýl og efni sérhvørs rits. Bókhandlari, sídan Agent Gyldendal gaf út slíkar Recensionir, og var Biskupinn sál. einn medal þeirra, er flestar slíkar ritudu. Um sama tíma biriadi hann ad auka og útgéfa fødurs síns verk Islands Kirkiu Historíu, hvørt erfidi honum var af General Kirkna *Inspections Collegio* uppálagt, bætti í hana miklu úr þeim ritum, er hann fundid hafdi í Arna Magnússonar Bibliótheki, og Cancellíe Archívinu í Kaupmannahøfn, sem og í Antiqvitets Archívinu í Stock-

í Stockhólmi, snéri á látínu øllum Dócúmentum, og lagdi á hana seinustu hønd.

Arid 1772, þá sá nafnfrægi lærdi madur Conference-ráð Kofod Anker ferdadist til Svíaríkis eptir Konúnglegri skipun til ad siá og uppskrifa láta gamlar norrænar log-bækur, útvaldi hann vorn sæla Biskup fyrir førunaut, í hvørri ferd honum, fyrir utan þann ávøxt, sem hann daglega uppskar af samtali vid þennann lærda og góda mann, heppnadist ad finna á þeim svensku bók-hlødum ein og ønnur rør fornaldar rit, vidvíkiandi vorri fødurlands historíu, og þar á medal sumt, sem menn héldu aldeilis undir lok lidid, svo sem Heidarvíga-søgu, eitt ed eldsta rit Islendínga, og sem þá var haldid med øllu tapad. Flest af þessu er á prent útgengid í Suhms danske critiske Historie, og Langebecks *Scriptoribus rerum Danicarum Medii ævi*, sem og Biskups *Doctors* Finns Islands Kirkiu Historíu. I þessari ferd komst hann og í kunníngskap vid nockra af þeim nafnkénndustu lærdu mønnum í Svíaríki, og vidhéldst lengi sídan sá

 kunn-

kunnugleiki vid suma af þeim med bréfaskriftum þeirra á milli.

Sama ár, nefnilega 1772, þegar Konúngleg Hátign hafdi tilsett stødugа Commissíón af 6 lærdum mønnum af háu standi til ad framqvæma þann sídarsta vilia þess íslendska manns og lærda *Professoris* vid Kaupmannahafnar há-skóla Arna Magnússonar, í því ad útgéfa smámsaman á prent þær søgur og fornfrædi, er þéna kynnu til ad upplýsa Nordurlandanna fornaldar sakir, þá útvøldu þessir menn hann strax í þeirra fyrstu samkomu til ad erfida undir þeirra tilsjón uppá þetta verk, ad útleggia og útgéfa þessar bækur, og hafa allar bréfaskriftir þeirra vegna, þar þeir, søkum embættis fiølskyldu ecki høfdu siálfir tíma til þess, hvad af Kónginum var stadfest, hvørt verk hann svo vel og med svoddan kóstgiæfni af hendi leysti, ad Kónginum allranádugast þócknadist ad skeinkia honum í tvær reisur 200 rdli árlega í tvø ár, í vidbót vid þau laun, sem Commissíónin hafdi honum tileinkad, og sem af rentunum af Arna Magnússonar stiptun ecki gátu mikil verid.

Um þennann tíma útgaf hann Kristni-søgu, Gunnlaugs Orms-túngu-søgu, hvor þó er að mestu Conference-ráðs Erichsens verk, og Húngur-vøku, sem einasta vantaði formála og registur, þegar Biskupinn sál. viðskildi. Þá varð hann, svo að segia, handgenginn þeim nafnfrægustu lærðu mønnum í Kaupmannahöfn, er løgðu fyrir sig Norðurlandanna søgur og fornfræði. Þessir vóru þá: Geheime-ráð Hjelmstjerne, Conference-ráð Klevenfeld, Geheime-ráð Ove Hoegh Guldberg, Etats-ráð Møllmann, en einkum Justits-ráðin Langebeck og Schiøning, Conference-ráðin Kofod Anker og Erichsen, Kammerherra Suhm, í hvors hús hann daglega kom, og Geheime-ráð Lüxdorph, hiá hvörium hann á hvøriu qvøldi var einn eða tvo tíma, og með honum gégnumgéck ýmist það gamla íslendska túngumál, eður ønnur þau fræði, sem sá lærði maður hafði yndi af að ítreka og skémta sér með samtali um. Á þess lærða Greifa Thotts, hvors áður er gétið, bóka-sal, var hann daglega 2 klucku-tíma, bæði til að nýta sér það

stóra bóka-safn, sem ecki átti sinn maka í øllum heiminum hiá nockrum, sem ei var ríkium stiórnandi Herra, og líka til ad giøra upplýsandi registur yfir Greifans látínsku handskrifudu bækur, hvørt verk Greifinn daglega yfirleit, og lét hann sýna sér røksemdir fyrir sérhvøriu, sem bækurnar og registrid snerti (c).

Arid

(c) I hvílíku áliti hann þá þegar, sem Stúdent, verid hafi hiá því danska Landbústiórnar Felagi, má siá af 2ur þess bréfum til hans, ødru af 16da Febr. 1771, hvar í Felagsins Sekretæri tilkynnir honum í þess nafni Felagsins þacklæti fyrir þad ómak, sem hann hafi giørt sér, ad gefa því ýmislegar nytsamar Athugasemdir vidvíkiandi íslendskum búskaparháttum; þar hiá hafi Felagid jafnframt séd her af hans kostgæfni fyrir gagni síns Fødurlands, og þad hafi stadfastlega ásett sér ad útsetia verdlaun handa Islandi, samt gefa því adra uppørfun, sem í þess valdi standi, strax sem kríngumstædurnar leyfi þad. Hid sídara Felagsins bréf er af 7da Júlí 1773, hvar í þad innbýdur honum til ad vera vid þess Samkomu daginn eptir á því konúnglega Sloti, þar þad

hafi

Árid 1775, þá hans eldsti bródir, Prófastur Sra. Haldór Finnsson féck af Kónginum veitíngar-bréf fyrir Hýtardals prestakalli, og Domkirkiuprests embættid í Skálholti þar vid vard lidugt, kalladi fadir vors Sáluga hann til þess embættis þann 13da Maí s. á., þó þessi hefdi þad þráfaldlega afbedid; þessari køllun hlýddi hann samt fúslega, svo sem hann ætíd var hinn audsveipasti og hlýdnasti í øllu því, sem hann vissi fødur sínum vera til vilia, jafnvel þó hann ætti hér ad gánga ad tífaldt minni launum, og þó honum á þessum sama tíma stædu til boda svo heidurleg og inntekta-gód kiør, sem eitt Prófessors embætti í Kaupmannahøfn, samt setti hann þad allt til sídu af hlýdni og sonarlegri skyldu vid fødur sinn, og ødladist konúnglega stadfestíng uppá sitt køllunar-bréf þann 13da Octóbr. s. á., hvar vid Kóngurinn af



hafi í hyggiu ad setia út verdlauna-heitíng fyrir Ísland, og vilji því, til ad fastsetia skilmálana, taka undir yfirvegun þær athugasemdir, sem innfæddur, lærdur og skynsamur íslendskur madur kynni þar vid ad giora.

sinni sérdeilislegri náð bætti því, að hann skyldi vera Stipt-prófastur í Skálholts-stipti, og fá annadhvort Odda edur Stadastadar prestakall, hvørt þeirra brauda, sem fyrr yrdi lidugt, en skipadi honum þar hiá allranádugast, eptir Commissiónarinnar undirlagi, ad hann fyrst um sinn skyldi samt vera kyrr vid þad verk, sem hann híngad til hefdi undir høndum haft, med þeim ádur umgétua vidbætir í hans launum, hvørin hann og trúlega þiónadi til þess hann fór frá Kaupmannahøfn.

Þann 22ann Martsí 1776 tók hann, eptir umsóktu Kóngs-leyfi, prestsvígslu af Biskupi Harboe. En ári sídar þann 12ta Martsí 1777 var hann af Kónginum allranádugast skickadur til ad vera sínum fødur, Biskupinum yfir Skálholts-stipti *Dr.* Finni Jónssyni í Biskups-embættinu til adstodar, og eptir hans fráfall ad verda hans eptirmadur, og var vígdur til þess embættis þann 11ta Maí s. á. af Harboe Biskupi yfir Siólands-stipti.

Þad fyrsta, sem hann tók sér fyrir hendur strax í Kaupmannahøfn,

þeg-

þegar hann var ordinn Biskup, var, ad hann med sinni allrauudirdánugustu *Suppliqve* til Hans kouúngl. Majestets af 17da Maí s. á. beiddist: ad fátækustu og skickanlegustu Presta-eckium í Skálholts-stipti mætti allranádugast veitast 200rdla. árleg Pensíón af Póstkassanum, hvørn stóra og óforgleymanlega velgiorníng, er þær enn nú nióta og í nockur ár notid hafa, þær ega hans medalgaungu ad þacka.

Eptir ad hann var kominn híngad til landsins, fór hann strax ad létta undir embættis-byrdina med sínum há-aldrada elskulega fødur, sérdeilis í þeim pósti, sem mesta líkamans krapta útheimti, sem var ad vísitera stiptid, hvørt verk hann biriadi í Arnes-sýslu árid 1778, og því sídan framhéldt, giørdi og ønnur Biskups embættis-verk ásamt fødur sínum, þar til þessi fyrir aldurdóms sakir þeim smámsaman á sér létti, og til fulls árid 1785, frá hvørium tíma vor sæli Biskup hafdi þessa stiptis ædstu umsión einsamall á hendi.

Ad uppreikna hér allt þad gott og nytsamlegt, sem hann giørdi í Biskups embættinu, mundi kosta oflángann tíma.

 Med

Med réttvísi, forsiálni, lempni, sannsýni, alvörugéfinni hógværd og stadföstu jafnadar-gédi stiórnadi hann svo stiptinu, ad hans undirgéfnir virdtu og elskudu hann, sem födur. Sinna undirhafandi yfirsiónir straffadi hann, og leid þeim eckert ósæmilegt, svo ránglæti med siálfrædi og umvöndunarleysi ei skyldi fá yfirhönd, en hiálpadi öllum hans undirgéfnum til laga og réttar, sparadi og eckert ómak ad forsvara þeirra rétt, þá vidþurfti.

Í úrskurdum sínum og lögsögn var hann réttdæmur, sanngiarn og frásneiddur því ad vilia í nockurn máta halla réttinum, hvaraf kom, ad hans embættis-giordir ecki einasta vóru samþycktar, heldur var þeim og optlega hrósad af þeim ædstu *Collegiis* utanlands, svo sem og ei mun ofmikid sagt vera, ad hann hafi í lög-kiænsku medal hér-lendra geistlegra manna ei haft sinn líka.

Hvad vors sæla Biskups lærdóm yfirhöfud áhrærir, má þad fortakslaust segia, ad land vort hefir aldrei haft hans jafníngia, hvorki á fyrri né seinni tímum, er haft hafi eins grundada og vídt útbreidda þeckíngu á svo mörgum lær-

dóms-

dóms-greinnum, sem hann. Þó meina menn, ad hann hafi hvad færástur verid í *Theologia Exegetica*, og Nordurlandanna fornfrædum, sem og svo ráda má af einu hans-bréfi til *Doctors* og *Professors* Moldenhauer; ydkadi hann og stöfeldlega þennann sinn mikla lærdóm med óþreytandi kostgiæfni allar þær stundir, sem honum urdu afgángs frá embættisins skolskyldu, uppfrædíngu únglínga og ødrum umsvifum, ad hann traudlega sást svo, ad hann væri ei eitthvad ad lesa edur skrifa. Nockrir ávextir af þessari hans ydni eru allareidu á prent útgengnir, sumpart í ritum þess konúnglega íslendska Lærdóms-lista Félags, og sumpart ad forlagi vors Lands-upfrædíngar Félags, hvor øll hans skrif eru hvørt í sinni veru vøndud, vel samin og hrósa þess sæla manns gáfum og lærdómi. Fyrir utan hebreska, gríska og látínska túngur, skildi hann ecki einasta, heldur taladi og skrifadi dønsku, svensku, þýsku og frønsku, hvørt sídarsta túngumál honum var svo tamt, ad þegar hann las einhvøriar frásagnir í því máli, heyrdist lítid eitt ad hann staldradi vid í framburdinum, þá

hann

hann framfærdi þær jafnódt á íslendsku. Því má og hér vid bæta, ad færstir hofdu adra eins þeckíngu á, né hafa skrifad sitt módur-mál í eins hreinum, skilianlegum, vidfeldnum og tilgiørdarlausum stýl, sem hann.

Vor allranádugasti Kóngur, sem hefir giørt sína ríkis-stiórn medal annars svo margfræga, med því ad veita heidur og umbun sønnum forþénustum, kunni ei láta slíkann mann af því hlutlausann, heldur þá Hans konúnglegi Sonur og Ríkianna tilvonandi Einvalds-stiórnari, Hans konúnglegu Háheit Krónprins Fridrik árid 1790 þann 31ta Júlí inngéck sitt hiónaband med Prinsessu Maríu Fridriku af Hessen-Cassel, skipadi Hans konúnglega Hátign, ad því rádi til heidurs skyldu *Doctores* af allslags hofud-lærdóms greinum innsetiast, og lærdustu mønnum af tígnuglegri stétt leyfast adgángur til slíkra metorda; veittist vorum sæla Biskupi þá, svo sem einum alþecktum lærdasta manni í Kóngsins ríkium, þessi heidur, ad honum óvitandi.

Af hértédum rokum var hann og kiørinn Félags-limur nockra þeirra Félaga,

sága, sem hafa fyrir augna-mid lærdómsútbreidslu og almenna upplýsíngu; því fyrir utan þad, ad hann var Félagslimur í því norska, og því íslendska Lærdóms-lista Félogum, einn af vors íslendska Lands-Uppfrædíngar Félags adal-stipturum, og correspónderandi medlimur þess danska Landbúnadar-, einnig Forseti vors sunnlendska Bókasafns og Lestrar-Félaga, var hann og kosinn Heidurs-medlimur Fornfræda Félagsins í Londún á Englandi.

Enn svo stór, svo nýtsamlegur, sem vor sæli Biskup var í sínu embætti og lærdómi, svo var hann engu minni í sínum lifnadi, sidferdi og allri umgengni, hvarí hann lýsti fyrir oss med sífeldu dæmi allra kristilegra og sidalegra dygda.

Medal þeirra má ecki síst telia hans staklegu vina-trygd, trúfesti og sannleiks-elsku í ordum og giördum, hógværd, hiarta-gædsku, hófsemi um allt, váfælni, fridsemi, mann-elsku. Hérmed var hann reglufastur, flýiandi alla fordild og ónytsamlegá nýbreytni; ad því skapi var hann ei til umbreytínga í mikilvægum efnum brádlátur, og ei til slíkra

slíkra alráðinn, fyrr enn hann hafði ná-
qvæmlega umþeinkt, og, sem best kunni
hann, útsied, að breytingin þénaði til
batnaðar, edur að þar af sliótandi gæði
í nærverandi og tilkomandi tíð, giørdu
meir enn jafnast við ógæðin, sleppandi
aldrei úr augsýn almenníngs gagnsemi,
er hann í hvørin einn mat meir enn þá
sérdeilislegu, edur þá, er fáeinum kom
til nota.' Við yfirmenn sína var hann
hinn hlýðnasti og auðsveipasti; við und-
irgéfna lítilátur, blídur og viðmótsgóð-
ur; við vini sína alúdlegur, einlægur,
tryggur og ráð-hollur; við velgiørðamenn
sína hinn þacklátasti; við alla óstolltur,
trúlyndur, réttvís, sann-sýnn, góðgiarn
og friðsamur; við þá, er honum giørdu
skaða edur rángt til, hinn fúsasti til for-
líkunar, þá þeir þecktu yfirsión sína; við
auma og nauðstadda meðaumkunar- og
góðgiørda-samur, og hinn þraut-besti
þegar á lá; í allri sinni umgengni jafn-
lyndur, viðfeldinn og uppbyggilegur.

Hvørsu góður og lempinn uppfræð-
ari hann var, er flestum af oss alkunn-
ugt; vóru og ætíð undir hans kénnslu
mestu manna synir, ættíngiar hans og
náfrændur, er undir hans tilsøgn tóku

góð-

gódum og fliótum framførum; útskírdi hann svo lidlega, skilmerkilega og med svo blídu og elskuríku vidmóti hvad eina, er hann vildi únglíngum innprenta, ad jafnvel þeim einfaldasta var ómøgulegt annad enn skilia þad, ef hann einasta veitti því nockra eptirtekt; svo ad allmørg úngmenni játudu, ad þeim veitti hægra ad giøra grein á sinni þeckíngu fyrir honum í hans vísítatíum, heldur enn fyrir þeirra eginn Presti.

Ad einn madur med slíkn hiartalagi og breytni vid einn og sérhvørn, sem nú er lítid ávikid, hafi sérílagi í hússtandinu, í einu og øllu, verid einhvørr hinn besti og æskilegasti ektamaki, fadir barna, og húsfadir hiúa sinna, segir sig svo siálft, ad þartil þarf ei ordum ad eyda. Í einu ordi: hann var bædi í lærdómi og lifnadi sannkallad skínandi og brennandi liós, virdtur og elskadur vegna sinnar vitsku og gódmennsku af háum og lágum, ríkum og fátækum.

Árid 1780 þann 28da Júní inngéck hann í fyrra sinn h. hiónaband med þeirri ad dygdum, gudhrædslu og qvennkostum nafn-frægu sál. Frú Þórunni Olafsdóttur, en mátti, sem eckin-

mad-

madur med sárri sorg siá á bak henni þann 7da Febr. 1786, eptir 6 og hálft árs samveru-tíma. Þetta hióna-band blessadi Gud med tveimur sonum, er bádir hlutu í skírninni nafn þeirra Há-velborna Módur-fødurs, af hvørium sá fyrri burtkalladist þann 11ta Decembr. 1784, 18 daga gamall, og hvílir hans líkami í Innraholms kirkiu, á hvørium gardi hans há-edla foreldrar þann vetur høfdu vistar-veru hiá sálugu Frúr Þórunnar hán foreldrum, eptir ad sá stóri og minnilegi jardskiálfti hafdi koll-kastad flestum húsum á Biskups-gardinum. Hiá þessum sínum Há-velbornu Teingda-foreldrum dvaldi vor Sálugi alls tvo vetur og part af þeim þridia, og var medal þeirra og hans ætíd hin stødugasta ástúd og kiærleiki. Hinn sídari fæddist ad Skálholti þann 11ta Janúari 1786, en andadist þann 14da Febr. næst eptir í þá yfirgángandi bólu-sótt, viku eptir andlát módur sinnar, á hvørrar orendu brióst líkaminn hvílir, í sømu kistu til jardar lagdur.

Eptir ad vor sæli Biskup hafdi reynt þetta þúnga mótlæti og sára missir, ad siá þær tvær persónur, sem hann hér

hér á jørdunni mest elskadi, í senn til moldar lagdar, bióst hann vid og þreydi eptir burtfør sinni frá þessu lífi, af hvør-iu hann þá fyrst um sinn hafdi lítid yndi. En gódum Gudi þócknadist ad glédia hann aptur á ný eptir hans hrygdar-daga, med því ad innleida hann í heilagt hiónaband þann 16da Septembr. 1789, med þeirri ad gudhrædslu, dygdum og øllum qvenn-kostum gódfrægu, nú sárt-syrgiandi eckiu, Frú **Valgerdi Jóns-dóttur.** Þetta þeirra yndislega hióna-band blessadi Gud med tveimur sonum, og tveimur dætrum, sem enn nú lifa, og, sem hvørt eptir sínum enn nú miøg únga aldurs máta, sýna meniar þeirra foreldrã náqvæmustu umhyggiu og besta uppfósturs, er géfur þá líkleguste von um, ad þau med varandi aldri giøri sig slíkra foreldra verdug med þeim dygdum og mann-kostum, er sídan skulu verka og efla þeirra eginn og fødur-landsins gagn og sóma.

Hvad vors sæla Biskups útgáng af heiminum snertir, þá kéunndi hann fyrst nockurs lasleika og ólystíngar þann 18da Júlí sídstlidna. Þann 19da for hann samt uppá **Alþíng**, og kénndi sín þar

miøg lítid. Þann 20ta reid hann í heitu vedri hardt og lángann veg frá Þíngvøllum ad Ulfliótsvatni, og sídan sama qvøld ad Búrfelli, og visíteradi bádar þær kirkiur, á hvorri sídar-nefndu kirkiu hann um qvøldid vard ál-tekinn. Þar lét hann ad morgni þess 21ta taka sér blód í olnboga-bót, hvaraf honum vel svíadi, svo hann þvíngunar- og sárinda-lítid komst heim í Skálholt. 22ann var hann lasinn, allt af strídum verki undir hægri sídunni, er lagdi uppí ørlína þeim meginn, hvørn læknarar kalla *pleuritis*. Þennann siúkdóm hafdi vor sál. reynt fyrst í Kaupmannahøfn 1762, sídan í Skálholti 1767, þar-eptir 1780, og nú sídarst, þá hann skyldi verda hans hel-sótt. Þann 25ta þá Hra. Land-physicus Jón Sveinsson til hans kom, lá Biskupinn sál. med þess-um verki og enn nú strídari sótt. Vid fiorum sinnum itrekadar blód-tøkur, samt inn- og út-vortis brúkanleg medøl, vard hann verkfrí, en sóttin vildi ei undanláta, heldur vidvara. Þann 3ia þessa yfirstandandi Augústí mánadar sýndist hann meir enn ádur fár í tali, þýngri til hreifínga í rúmi, vilia meir falla í mók,

mók, þó med allri rænu. Lokſins um nóttina dregur af honum mál, ſvo hann ei heldur tekur í móti ad vøkvaſt, og ad morgni þeſs 4da þ. m. hérum kl. hálf 7 ſloknar út ſem liós med hægu andláti.

Land vort miſti þar gódann og nytſamlegann merkis-mann, hvørs marga líka fá lønd og fáar aldir opt géta ſynt. Er því ei ad undra, þó ſøknudur þvílíks manns falli ſárt, ecki einúngis ættíngium hans, vinum og náúngum, heldur øllum er til hans þecktu. En hann hefir eilífa gledi og føgnud hreppt eptir loflegt og dygdugt líf, er varadi í 57 ár, 3 mánudi og freka 3 daga. Hafdi hann ordid Preſtur og Stipt-prófaſtur fyrir rúmum 20 árum, en vérid Biſkup þeſſa ſtiptis 19 ár og 3 mánudi, vígt 82 Preſta, en tilſkickad, ſvo nær ſem alla nú í embættum verandi Prófaſta.

H. S. E.
Laudatiſſimus. Islandus.
JOHANNES. FINNAEUS.
S. S. Theologiæ. Doctor.
Epiſcopus. Dioeceſeos. Skalholtenſis.
Natus. die. VIII. Maji. Anno. MDCCXXXIX.
Denatus. die. IV. Auguſti. Anno. MDCCLXXXXVI.
Summus. Theologus.
Polyhiſtor. Celeberrimus.
Scientiarum.
In. Patria. Inſtaurator.
Eccleſiæ Columen.
Præceptor. Dexterrimus,
Vir.
Probatæ. Pietatis.
Spectatiſſimæ. Fidei.
Manſvetudinis. Singularis.
Induſtriæ. Admirabilis.
Patriæ. Ornamentum.
Lugens. Islandia.
Parem.
Tanto. Nomini.
Diu. Qværet.
Eheu!
Diutius. Deſiderabit.
Tale

*Præceptori, Affini & Amico nunqvam obliviſcendo monimentum moeſtiſſimus poſuit*
MAGNUS STEPHANIUS.

Sorg-

# Sorgar-Þánkar
## vid Grøf
## þess sæla Hofdíngia
## Biskupsins yfir Skálholts-Stipti
# Dr. Hannesar Finnssonar,
eins
hans harmandi Vinar,
þann 23ia Augústí 1796.

Lagid er: Þier, Drottinn! þacka eg.

I.

Hvad veldur: Island ad
Ásýnd miøg dápra ber?
Því ángurs óp um þad
Allstadar heyrast fer?
Því hylst þad hrigdar-skýium?
Liós fagurt sloknad Landsins er!

2.

Því Gydiu Menta má
Margt falla tár á kinn?
Hví grátna hefia brá
Hennar børn? efni' eg finn:
Þau mildann mistu Fødur,
En hún Elskara syrgir sinn!

3.

En — Pocka-Gydiur því
Þurrlegar virdast mér?
Þær, sem um bygd og bý
Budu inndæli' af sér!
Eg heyri allar svara:
Handgenginn **Vinur** horfinn er!

4.

Öldúnga ángurs-mein
Og Kénnivald hvort skér?
Því úngra vol og vein?
Veitstu: því Skálholt fier
Hulid allt harma-blæum?
**Hannes** Biskup andadur er!

5.

Þángad nú þyrpist enn
Preyenda skarinn fár,
Sorgbitnir merkis-menn,
Mannvinur lágur, hár;
Vid Lands- og virdta-Vinar
Framlidins Gröf ad fella tár.

6.

Grátum! því ærid er.
Efni til gráts um sinn!
Grátid, sem medur mér
Mistud hér Ástvininn!
Trygd-reyndann besta Bródur,
Biskup og Lærifödurinn!

7. Þér,

7.

Þér, sem Hans þecktud dygd,
Þér, sem Hann fræda vann!
Þér, sem Hann tók vid trygd,
Tiáid: var betri' enn Hann?
Siáid Hans grøf og segid:
Syrgia hvort ber ei þvilíkann?

8.

Siáid Hans sæti audt!
Sýnid hvørr fylla má!
Sét eg, ad grátin traudt
Gydianna þerrist brá.
Hvørs mætti hofdi fara
Hatturinn *Doctors* eins vel á?

9.

Kom eg á fund Þinn fús,
Fullsæli Bródir! æ;
Þá nálgast Þitt jard-hús,
Þér tárum offrad fæ;
Mér er Þinn missir bættur,
Í dírd þá Þinni nálægd næ!

10.

Lærdóms á medan ment
Monnum fær heidurs safn,
Og Manndygd lof er lént,
Leita má: hvar er jafn?
Á medan aldir lifa,
*Doctors* Hannesar deyr ei Nafn!

M. Stephensen.

H. S. E.

Vir. Incomparabilis.

Vita. Et. Doctrina. Patriae. Decus.

JOHANNES. FINNAEUS.

Sacro. Sanctae. Theologiae. Doctor.

Dioecefeos. SKALHOLTINAE. Epifcopus.

Per. Annos. XIX.

Natus. REYKHOLTI. Die. VIII. Maji. MDCCXXXIX.

Mortuus. SKALHOLTI. Die. IV. Augufti. MDCCXCVI.

Ex. Faufto. Conjugio.

Cum.

THORUNNA. STEPHENSEN.

Deinde. Cum.

VALGERDA. JOHANNAEA.

Viduá. Superftite.

Sex. Liberorum. Pater.

Qvatuor. Reliqvit.

Følt

# Folt Blad medal fagra Rósa
lagt á
# Legstein ódaudlegs Læri-fødurs
af annarlegum
## Jardar Púnga.

Lagid er: Gud Fadir, Sanur og Andi hreinn.

1.

Hvarf láta miskynnt Høfdingians
Hannesar rómar tveir
Þann Doctor Biskup, lióma lands
Lidinn hvorr madur frenr.
En dygdir, vitska og heidur Hans,
Hásborin systkyn géfa til ans:
Hann es, já, Hann ei deyr!

2.

Ef nockrum manni veglegt verk,
Vitska, prúdt hiartalag
Ast-hylli vann og æru-serk,
Eptir Hans skapa-dag,
Er þad víst Hann, hvors (¹) umsión merk
Odaudlegann hiá leik og klerk
Bera mun heidurs hag.

3.

Virdist sem halli velgengne
Veraldar, (til ad siá)

 Peg-

(¹) Umsión vi vocis Episcope (inspectio) hvar af mindad er í voru máli ordid Biskup.

Þegar svo falla fögur tré,
Enn faufkar eptir stá.
En fyrir þad, galli sýnist sé,
Sann-vitur allra stiórnare
Verk sitt ad vænna sá.

4.

Þackandi losum þá Guds hönd,
Þessa manns hvarf sem giöf,
Í heims spil-stofu verk sem vönd
Vel lék um (²) stutta töf.
Uns daudans rosin detta bönd
Dírdleg, sól ofar, geymist önd,
En blessud bein í gröf.

5.

Ef Födur söknum, sárádt lid!
Frædirs og Leidtogans,
Hvar fyrir klocknum vér ei vid
Vönd Guds í svipting Hans?
Æ ad nú voknum! ágiætid,
Inn til þess flocknum, ment og sid
Lærum ens mikla Manns!

Fáir

(²) Víst hefir sálugi Biskupinn andast nockud aldradur, en bædi þykir mönnum þad stutt, já, ofstutt, sem þeir vildu ad lengur varadi, og líka er ein þverhandar-breidd aldrei laung, sem Ritníngin nefnir mannsins æfi, jáfnvel þá lengstu, hvörri hann þó ecki nádi, en lék betur og meira enn margur níræd ur.

Fáir og ófimlegir
þó bugheilir.

# Qvein-ſtafir

yfir ſorglegum miſſir í Dauda þeſs
gódfrægaſta Höfdingia
Herra Biſkups
Dr. Hanneſar Finnsſonar,
ſem ſkédi þann 4da Augúſti 1796,
af munni fallnir
einhvorium hans enum lítilmótlegaſta, en
ſárt-ſaknandi Wett-bródur.

Lagid er: Um daudann gef þú Drottinn mer.

O! þú fodurland ís-klædda, ógiæfu haldid ſtrídi, ſvala nú gédi ſorgmædda, ſíſt bid eg tár-in bídi, æ! grát nú þína egin pín, er nú burtu af hofdi þín, horfinn þín helſta prydi.

2. O! þú Sudur-ſtipt, adgiæt þú, ad ſé þinn fagur blómi, ordinn ad ſiſi einu nú, og þeim miog líkur hliómi ſaungva, er gledi ſæta lér, ſídan á burtu horfin er, ei neitt ad all-ra dómi.

3. O! þér nærlendis allir hér, í einu hliódi takid, undir med ſoknud eymdum mér, æ Skálholt! harma-qvakid, upphef og grát ógiæfu þín, æ! hvad þú virdiſt ſiónum mín, reyna margt rauna-blakid! 4. Þó

4. Þó yfirtekur þetta nú, þig sem mest ángrir, kæsur, bætur þess aldrei bídur þú, bilad þín stytta hefur, Hann út sáladur hafinn er, heidur sem mestann veitti þér, rok sem ad rauna gèfur!

5. Byrgdann í moldu burtdaudann, Biskup H a n n e s vèr siáum, einhvørn þann besta Yfir-mann, alkénndann dygdum háum, liósi fegri, sem lýsti hèr landinu, burtu hrifinn er, sárt hans því sakna fáum.

6. O! þig daudi, sem deyddir þann, dýrasta mann í landi, sem í dygdunum sífeldt vann, sonnum Gudi þiónandi, ætíd framlída eins og blís, øruggur, trúr, án sèrgædis, sí-hægur, samt stiórnandi

7. Vinfastur, dyggur, vinsæll, skír, vellærdur þolinmódur, rètt-dæmur, gègn, gèdprúdur, hýr, gudhræddur, dagfars gódur, annara lucku elska vann, annara-kiorin bætti Hann, ættíngium besti bródir.

8. Æ! hvad þad mætti ángra mig, æ! mig er svo opt þádi, af Þèr, minn Bródir! ástúdlig, ord, verk, med gódum rádum, ad Þú burttekinn ert frá mèr, o! eg mætti vera hiá Þèr, á lifendra manna ládi!

9. Hugga eg þar vid huga minn, hèr þó mig rauna-slagur ángri, lífs samt vid endirinn, upprunnur sídan fagur, skodunar-dagur skýlaus mèr, skal minn þá vera um eilífder óttalaus yndis-hagur.

10. Finn eg Þig aptur fridann þá, frá mædu hurtu hafinn, födurlandi unnnar á, eilifri sælu vafinn, eg skal þar vera, ásamt Þér, og míns Guds skoda dásemder, af neinu ecki tafinn.

11. En sárt grátandi Eckiu-Frú í þessum tára-geymi, siálfur Gud Drottinn! svala þú, svo hún því ecki gleymi, ad þann, sem misti ángrud hér, aptur finni med dírd hiá þér, fagnandi í fridar-heimi.

12. Börnunum födurlausum lid, legg þú ó! Fadir, kiæri, hvörki ad þeim þitt hiálprædid, Herra, og gledi tæri, ætíd gef þeim ad elska þig, og þann ad gánga réttann stig, sem þeim til frama færi.

13. Æ! gef oss, Drottinn! ástinenn þá, andada hér sem grátum, liómandi dírdar landi á, síta med huga kátum, og þeim sambúa, ásamt þér, engin hvar mæda framar er, sýngiandi sigur-látum.

14. Medan þú Drottinn mædu leid, minna hérveru-daga, teigir, ferdina Gud minn greid, gior siálfur öllu haga, þér til dírdar, en þarfa mér, þad sem eptir daganna er, gef mér gudlega laga.

15. Þegar þú Jesú mildi minn! mig giorir hédan kalla, sesi þá dreira-sveitinn þinn, sárbeiskiu daudans alla, helsóttar ysrum hættunni sió, heimleiddu sál, í frid og ró, himnesk[r]a dírdar halla.

# Sólar-hvörf Sudur-stiptisins á Íslandi,

vid burtköllun þess

dýrmæta Höfdingia

Biskupsins

# Dr. Hannesar Finnssonar,

þann 4da Augústi 1796.

med sáordum liódmælum áhrærd

af

J. H.

Lagid er: Sólin til fialla, fliótt.

Æ sión! æ ord! æ tár! er eg sá, heyrdi og leit, hvad ferleg feigdar-sár, falla á þennann reit? orda til ecki vinnst, ordfærid grát-bagad, orda samt ecki bindst, orsökin giörir þad.

2. Eg sá í einum draum', ángur bodandi sýn, heimsins því hafnar glaum, harmþrúngin sálin mín: eg þeckti ákominn, einn vera fagrann hól, hvar ilmud aldinin yfir rann hvarma-sól.

3. Náttúran yfir allt, yndisleg þókti mér, himin, jörd, hafid salt, hvad eitt gaf þocka af sér, vindanna hvolfid hátt, heidríkian prýddi fríd, mér fannst úr allri átt, endurlífgunar tíd.

4. Dagsins um loptid lá, liós birta upp-runnin, en stiornum eg þó sá, alsettann him-ininn, glampinn, sem géck þeim af, glæfagur allt um kríng, unnunar ásýnd gaf, öllum sión-deildar hríng.

5. Yfir

5. Yfir mér undrun ný, ókyrrdi þánka hiól; nú sá eg austri í, upprenna fagra sól, leid uppá loptid há, liómandi fylgdi glans, og setiist efst ad siá, í midianni stiarna=krans.

6. Svo skiæra æfi á, aldrei eg sólu leit, log-andi lagdi þá leiptran um himin=reit, lýsti upp lopt og heim lióminn, en stiörnurnar, af geisla urdu þeim; enn fegri tilsýndar.

7. Sión þessi unun ól, eg hugsa tók med mér, vid skin af svoddan sól, sætt er ad lifa hér; þad orfar þrek og dád, þad gledur hiart-ans þel, o! ad vort lid og lád, lengi þess nýti vel.

8. Enn í því upp eg sá, úr nordri vada ský, afar=dimmt á ad siá, ódi mig vid því; þar í vár einhvor mind, allt eins og rótins manns, berskinin beinagrind, úr býli grafar=ranns.

9. Einni hönd í hún bar, útrunnid tíma-glas, hvoss sigd í hinni var, sem hoggur jard-ar=gras; skýid þá skiærri sól skiótt yfir=rásadi, en hún formyrkvud sól fegurd og blíknadi.

10. Undir eins edlis glært, ærid dapradist þá, stiarnanna skínid skiært, skugga um loptid brá, jörd yfir dymma dróst, deysdist allt inndæli, en eg med þángum þióst, þar vid uppvaknadi.

11. Nú, sem eg vakinn var, værdist ei ged-id mitt, eg merkti allstadar, ángist og hrigdar-qvitt, sveit manna sút búin, sorgar=dans Gyd-iunum, einnin lands Yfirmenn offrudu tárunum.

12. Med sama sëck eg sár fregnad, og skilid þar, hvar fyrir felldi tár, fólkid og höfdingiar,

sk

sie èg nú sannleikinn, sie eg hvad veldur grát, Draum fyllir dapurt niinn, *Doctors* Hannesar lát

13. Hann mátti heita sól, hásfiær í mentunum, Hann geisla hvorgi fól, Hann skein í Dygdunum, Hann prýddi helga stétt, Hann lýsti öllum bert, Hann var lands heidur rétt; Hann er því gráta vert.

14. Sakna nú sorga-giorn, sármædd og grát-búin, Frú Hans og blessud born, er besta Fodurinn, missti og sæla sól, sem skein med inndæli, veri þeim værast skiól, vors Jesú hiálprædi.

15. Hér saknar Menta-Manns, Minerva grátinn þrátt, meinandi maki Hans, muni ei koma brátt, lærdóm og listir bar, lángt yfir flesta menn, í öllu allstadar allskír og marglesenn.

16. Hér sakna Hofdíngians, hellstir úm Íslands bygd, virdtgiarnir vinir Hans, vid sem Hann festi trygd, Eins þeirra ei gat leynst, ángur af missirnum, sár hefir fremur reynst, frændum og ástmönnum.

17. Hér sakna Merkis-Manns, miog sem ástfólginn var; fylkínga Frelsarans, fridarbods hrópara, sárnar þeim kífid kallt, kirkiur og skólarner, stóll Hans og stiptid allt, stórlega barmar sér.

18. Grátum! því grátlegt er, gudrækinn Hofdíngia' missa, sem vissum vér, vildi oss farsæla, Hans minníng margblessud, monnum ei fráviknr, hiálpi mér, herra Gud! hvar fæst nú þvílíkur?

19. Grát-

19. Grátid þér greni-tré, gráts-efni um-vafinn, fyrst Cedruss' folur hnè fágæti vid-urinn, land vort má lengi hér leita, og finn-ur traudt, þann, hvorium fullvel fer, ad fylla Hans sæti audt.

20. Grátum þó ei um of, orendann Hofd-íngiann, Guds hátign greidum lof, sem gaf og burttók hann, geymum svo hugar hýrt, hiá oss med æru safn, í virdíng dýrri dýrt, *Doctors* Hannesar Nafn.

21. Grátum ei! Guds þó makt, Guds tæki verkfærid, hann hefir laungum lagt, likn sína þrautum med, oss til hugreckiu hér, hof-um á þessu gát, dýrmætt hiá Drottni er, *Doctors* Hannesar lát.

22. Grátum ei! Guds er rád, Guds kiæru ástvíner, sem þreyttu líf um lád, laun taki best hiá sér, hvörs vegna hreinsud öll, heims mædu laus vid tál, dýr skín í Drottins höll, *Doctors* Hannesar sál.

23. Grátum ei! Guds mun hönd, Guds þegar tíminn er, leysa vor líkhams bönd, líka svo heim med sér leida, og láta fá, lífs hærsta inndæled, dírdar stól Drottins hiá; *Doctor* Hannesi med.

Fiat!

## Grafſkrift.
(af ſama.)

Hér blundar hægt ørendur,
Hrós, Islands vinur, ljóſið,
Hár Biſkup, bladinn æru,
Hannes Finnsſon val manna,
*Doctor* dhruſtu ſpektar,
Deydi nær Sextugs ſkeidi,
Nitián ár vænn og vitur,
Vørdur Guds ſthrdi hiørdu.

## Onnur.
(af ſama.)

Lagid er: Hiartad, þánkar, hugur, ſinni

Ef ad mentir, ydni, dygdir,
Alúd, hógværd, gódſemin,
Viſſka, nytſemd, vinſæld, trygdir,
Varúd, ſnild og hóſſemin,
Nockurs giæti likham lént,
Líf og ódaudleika ſendt,
*Doctor* Hannes dád umvafinn,
Dáinn lægi hér ei grafinn.

Skál-

* *  *  * *
*  * *  *

Skálholt ef mætti mæla,
Mundi sist kallast undur,
Og skiptið út af hrepptum,
Adstediandi mannskada,
Beiskann klagadi, Biskup,
Biskup miøg hárrar vitsku
Burt er! seint trúi' eg birtist
Bót nóg þeim skada móti.

Hannes ad hógværd kunnur,
Hann frægstur Biskupanna,
Fyrir Hann, víst sem vóru;
Veit eg ei hvar skal leita
Aptur þvílíkum eptir,
Ad øllu sem Hann samfollnum,
Vel má gyldt, þó svo valid,
Verdi' ei sem Hann á ferdum!

Jón Hannesson.

IN
OBITUM
S. T.
DOCTORIS H. F I N N A E I
*EPISCOPI SKALHOLTENSIS.*

Orba ſuo, miſeros *Islandia*, lumine, qveſtus,
Maeſta dat, & lacrimis immadet ipſa ſuis.
O! decus eximium Patriae! Reſpublica, *Finnae*,
Anxia triſte gemens, *Te*, viduata, dolet:
Immortale decus patriae! doctiſſimus ille es!
Unus, adhuc noſtri, qvos ea vidit humus.
Fata licet ſubeas, tamen indelebile nomen
Arctois terris vivet ubiqve *Tuum*,
Atqve *Tuas* fama laudes O! inclite Praeſul!
Poſteritas omni tempore ſera canet.

*Eſpehôli, d. 29 Decembr.*
1796.

JONAS JACOBI FILIUS.